

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST !

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ



MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (MARX-LENINISTA)
1.ÁRG 6.T.B.L. 1975

# BURT MEÐ stéttasamvinnuna!

## SKIPULEGGJUM BARÁTTUNA!

Stefna sú er forysta verkalýðshreyfingarinnar hefur í hagsmunabaráttunni er stefna sátta og samvinnu við auðvaldið. Sífellt skulu verkamenn þurfa að taka tillit til ástandsins í "þjóðarbúinu","efnahagsörðugleikanna,sem þjóðin á við að etja".Það er stefna stéttasamvinnumanna. Verkalýðurinn ber hins vegar enga ábyrgð á ástandi auðvaldsefnahagsins.Verkamenn spyrja: Er ástandið orðið svona slæmt vegna þess að við vinnum verr eða minna? Stöndum við ekki í skilum með okkar vinnu? Svarið sem auðvaldið gefur þeim er að loka á þá dyrunum,en í forystu verkalýðshreyfingarinnar er allt gert til að bera smyrsl á sárin svo verkamenn grípi ekki til þeirra ráða sem duga til að hrinda árásum auðvalds og hlaupatíka þeirra í röðum verkalýðsins sjálfs.



Stofnuð hafa verið í Reykjavík "Baráttusamtök verkafólks". BSV er vissulega stórt skref framávið í skipulagningu vinnandi fólk til baráttu gegn stéttasamvinnu og fyrir bættum kjörum.

### BARÁTTUSAMTÖK

EIK(m-l) álítur að sú baráttuaðferð og það skipulag,sem vænlegast sé til árangurs gegn stéttasamvinnunni,séu andstöðulið, skipulögð utan stéttarfélaganna,með það meginmarkmið að endurreisa þau sem baráttutæki í kjarabaráttunni. Þessi andstöðulið verður að skipuleggja sem vel skipulögð sjálfstæð liðsmannasamtök. Vegna þess hve andstaðan er enn fámenn og veik,er ekki grundvöllur fyrir sjálfstæðum andstöðuliðum innan hinna einstöku stéttarfélaga,en þó er rétt að miða skipulagninguna við hópa,sem skift er niður eftir ólíkum stéttarfélögum og málefnum.

Innan þessara andstöðuliða teljum við rétt að skipuleggja allt það fólk úr öreigastétt,sem er reiðubúið að berjast gegn stéttasamvinnunni. Það þýðir að innan þessara samtaka á heima fólk úr stéttarfélagasamböndunum ASÍ,FFSÍ, INSÍ og BSRB,auk húsmæðra úr öreigastétt.

Það er ekki rétt sem fram kemur í"Stéttabaráttunni",að EIK(m-l) hafi viljað að nemendur almennt skyldu hafa þáttökurétt í BSV.

Höfuðáherslu leggjum við á starf innan stéttarfélaganna aga ófaglærðs verkafólks, s.s. Dagsbrún í R.vík og Eining á Akureyri. Það má samt ekki leiða af sér starfsleysi innan annara stéttarfélaga.

FRAMHALD BLS. 5

LANDHELGISMÁLIÐ

# berjumst gegn allri rányrkju

# ALLIR SAMNINGAR ERU SVIK

INNI Í BLAÐINU:



## NÁMSSTARF EIK(M-L)

Nám í fræðikenningu marxlenínismans er nauðsyn hverjum framsæknum manni, sem öðlast vill skilning á þjóðfélaginu og þróun þess. Hver sá, er vill kynna sér og afla sér raunverulegrar þekkingar á frelsisbaráttu kúgaðra um allan heim verður að stunda nám í fræðikenningunni. Slíkt nám er ekki síður mikilvægt til skilnings á stéttabaráttunni hér á Íslandi, þeim sérstöku aðstæðum sem hér ríkja og þróunarstigi íslenska auðvaldsþjóðfélagsins. Fræðikenningin sýnir fram á hvernig sósíalisminn er óhjákvæmileg afleiðing auðvaldsþjóðfélagsins - hvernig draumsýnin verður að vísindum.
En þekking á marx-lenínismanum og skilningurinn einn á þjóðfélagsþróuninni nægir ekki. Vísindi byltingarinnar eru í þjónustu verkalýðsstéttarinnar í baráttu hennar fyrir frelsun sinni undan arðráni og kúgun auðvaldsins. Fræðikenningin krefst þess af hverjum þeim sem vill kalla sig

Framhald á bls. 7.

**VERKALÝÐSBLAÐIÐ**
**málgagn EIK(m-l)**



RITSTJ. OG ÁB.M.:ALBERT EINARSSON

## LEIÐARI

7.nóvember voru 58 ár liðin frá upphafsdegi Október byltingarinnar í Rússlandi.
Byltingin kveikti glæður sósíalismans hvarvetna og efldi baráttu framsækinna afla í mörgum löndum.
Þrátt fyrir baráttu afturhaldsins og auðvaldsins gegn fyrsta ríki sósíalismans hristi sovésk alþýða og verkalýður af sér alla klafa undir forystu bolsévíkaflokksins og Leníns og Stalíns á eftir honum.
Á árunum 1917-1945 var saga stéttabaráttunnar í Sovétríkjunum stolt verkalýðshreyfingar alls heimsins.Ber þar einnig hæst þáttur Sovétríkjanna í baráttunni gegn fasisma, Hitler-nasismanum og styrjaldarrekstri heimsvaldasinna.
En fyrrverandi yfirstéttir grófu undan ráðstjórnarvaldinu og veiktu innviði flokksins í langan tíma.
Bolsévíkar virkjuðu ekki fjöldann nægilega í baráttunni gegn gagnbyltingunni.Eftir lát Stalíns lét afturhaldið til skarar skríða,endurskoðaði marxismann,breytti gagngert efnahagsskipulagi Sovétríkjanna og treysti völd sín með ríkisvaldinu.Þetta var gert undir yfirskini "gagnrýni á stalínismann".
Nú er svo komið að alþýða Sovétríkjanna er kúguð og arðrænd með líkum hætti og hér,en heimsvaldastefna Sovétríkjanna bitnar á þriðja heiminum og minniháttar auðvaldsríkjum,eins og t.d. því íslenska - og þá fyrst og fremst öreigum þeirra landa.Október byltingunni er snúið.



# Baráttan gegn risaveldunum og harðnandi stéttabarátta



Samtímis sigri gagnbyltingarinnar í Sovétríkjunum uxu Bandaríkin að veldi, þannig að þau voru voldugasta og grimmasta heimsvaldaríki veraldar upp úr 1950-1955.Blóði drifinn ferill þess liggur um allar heimsálfur.Samhliða æ fleiri ósigrum bandarískrar heimsvaldastefnu t.d. í Kóreu, í S-Ameríku og Indókína, tóku Sovétríkin að færa út kvíarnar og keppa við Bandaríkin.Nú eru Sovétríkin orðin vaxandi risaveldi með hernaðarmætti, ítökum og arðránsfé er stendur Bandaríkjunum á sporði á flestum sviðum.
Íslensk borgarastétt ver Bandaríkin með Sjálfstæðisflokkinn og Framsókn í broddi fylkingar.

Það er tilvist risaveldanna tveggja og stóraukin frelsisbarátta alþýðunnar sem einkennir nýja tíma.
Kommúnísk barátta og önnur framsækin barátta verður að taka mið af stöðunni.
Risaveldin standa ýmist saman eða bítast á. Ráðstefnan í Helsinki innsiglar "vináttuna" og dylur styrjaldarundirbúninginn.Svikapólitík þeirra í Mið-austurlöndum sýnir bíræfna samkeppni og andstöðu við raunverulega þjóðfrelsisstefnu Palestínuaraba.
Bandaríkin fjárfesta í Sovétríkjunum og öfugt - þegar portúgölsk alþýða losar tök Bandaríkjanna á landi sínu gína Sovétríkin yfir því í staðinn.
Ísland er engin undantekning.
Hér fer stéttabarátta harðnandi.Kreppan dýpkar og kjör vinnandi alþýðu versna.
Æ fleiri hópar hefja baráttu gegn kreppupólitík einokunarauðvaldsins og ríkisins.
Skólanemar fara í verkfall og hefja fjöldabaráttu.



Báðum megin við okkur vígbúast risaveldin af kappi. Stríðshættan vex stöðugt í skjóli "friðar"yfirlýsinga risaveldanna.

Sjómenn gera skyndiverkfall vegna kauplækkana.
Starfshópar innan BSRB og BHM beita ólöglegum verkföllum með árangri.
Konur heyja æ víðtækari baráttu fyrir jafnrétti.
Hvarvetna ólgar undir niðri í stéttarfélögunum og skipulagðir hópar andstöðumanna gegn stéttasamvinnu skjóta upp kolli.
Æ fleiri gera sér grein fyrir að auðvaldsskipulagi hefur verið komið á í Sovétríkjunum.Hér á Íslandi hefur blindasti blekkingaráróður afturhaldsins beinst að því að benda á Sovétríki nútímans,sem "kommúnisma í framkvæmd" - of margir eru því andsnúnir Sovétríkjunum á röngum forsendum.Alþýðubandalagið ver hinsvegar Sovétríkin, dregur taum ríkisauðvaldsins þar,en trotskistarnir í Fylkingunni vilja"verja Sovétríkin og landvinninga, þrátt fyrir galla".Þetta er samlit afturhaldsfylking - Morgunblaðið,Þjóðviljinn og Neisti.

Og það sem meira er - yfirleitt lýsa þessir aðilar yfir samstöðu hvor með öðrum.
Afturhaldið bregst við á tvennan hátt:
Það finnur fleiri leiðir til að velta kreppunni yfir á vinnandi alþýðu og býst til harðari baráttu, annars vegar. Hins vegar beitir það fyrir sér stéttasamvinnuforystu ASÍ, BSRB og BHM - er reynir markvisst að svæfa alla beina baráttu með því að takmarka starf sitt og fjöldans innan ramma "þjóðarhags og þings". Samtímis leitar einokunarauðvaldið til heimsveldanna,eykur viðskipti við Sovét,hleypir bandarísku fjármagni inn í landið og verslar með auðlindarétt Íslands fyrir eigin gróða.Bæði borgararnir og endurskoðunarsinnar Alþýðubandalagsins reyna að fela ásælni risaveldanna og stríðsundirbúning með því að taka undir friðarhjal þeirra.

Þróunin fæðir af sér mörg verkefni til handa framsæknum aðilum og kommúnistum.
Varðandi innanlandsmál er brýnast að efla baráttuna gegn stéttasamvinnunni,endurreisa stéttarfélögin og skipuleggja pólitíska forystu í baráttu gegn endurskoðunarstefnu og kratisma - skipuleggja kommúnískan flokk.Einörð

kjarabarátta er þar engu síður mikilvæg en sú pólitíska.
Baráttan gegn risaveldunum og allri heimsvaldastefnu er órjúfanlega tengd þessu.Heppilegasti rammi stéttabaráttunnar - pólitískt sjálfstæði Íslands - er í hættu.
Borgararnir selja það í gróðaskyni,en alþýðan undir forystu verkalýðs stendur ein á móti.
Þess vegna verður að snúast gegn innflutningi erlendrar stóriðju,gegn NATO og EBE,gegn fjandsamlegri fiskveiðistefnu og yfirgangi Sovétríkjanna.Um leið verður að gæta þess að styðja alla viðleitni ríkja og stétta sem vilja einangra risaveldin,takmarka veldi þeirra og eyða þeim.
Endanlegur sigur fæst þó aðeins með útrýmingu auðvalds og uppbyggingu sósíalismans.
Tími baráttunnar gegn innlendu og erlendu auðvaldi er sannarlega löngu hafinn.

Arðrændir og kúgaðir allra landa sameinist!
**VERKALÝÐSBLAÐIÐ**

Útgefandi:
EININGARSAMTÖK KOMMÚNISTA
(Marx-Lenínistar)
póstfang: Skólastræti 3b
verð: áskrift 1975 250 kr.
1976 600 kr.
í lausasölu 50 kr.
póstgíró nr. 12200

## TIL ÁSKRIFENDA

250 króna áskrift er allt of lítið til að VERKALÝÐSBLAÐINU geti tekist að byggja upp sterkt og útbreitt málgagn vinnandi alþýðu.
VERKALÝÐSBLAÐIÐ byggir ekki afkomu sína á auglýsingaflóði auðfyrirtækja og gróðabraskara, né heldur nýtur það þeirra forréttinda málgagna borgaraflokkanna að fá umbun af ríkisauglýsingum.
VERKALÝÐSBLAÐIÐ er ekki keypt upp af auðvaldinu og ríkisvaldi þess,hvorki skoðanalega né efnahagslega.ÞAÐ ER STYRKUR ÞESS.
VERKALÝÐSBLAÐIÐ verður samt að afla sér tekna til að geta vaxið og náð meiri útbreiðslu um leið og barist er fyrir því að bæta útlit og innihald blaðsins.
VERKALÝÐSBLAÐIÐ er til fyrir vinnandi alþýðu og snýr sér til vinnandi alþýðu til að afla fjár.
Útbreiðsla og styrkur baráttumálgagns er einn mælikvarði á dug stéttarinnar í baráttunni við borgarastéttina.Eflist VERKALÝÐSBLAÐIÐ er það merki um vaxandi byltingarbaráttu á Íslandi.Um leið hefur blaðið áhrif á baráttuna og styrkir hana.
Ritstjórnin er því sannfærð um að áskrifendur og velunnarar blaðsins líta sömu augum á hækkun áskriftagjalds fyrir 1976 og hún gerir:
Því sterkari efnahagslegur grundvöllur sem VERKALÝÐSBLAÐIÐ hefur,þeim mun beittara vopn er það í stéttabaráttunni.

GREIÐIÐ ÁSKRIFT
1975: kr.250.-
1976: kr.600.-
GREIÐIÐ ÁSKRIFT FYRIR 1976 STRAX
PÓSTGÍRÓ - 12200

# AÐ ÞJÓNA FJÖLDANUM EÐA AFTURHALDINU?

Tveir listviðburðir í Reykjavík í haust sýndu glögglega hver munur er á list sósíalísks ríkis og ríkis afturhaldsins. Það voru Tientsin-fjöllistaflokkurinn frá Kína og látbragðsflokkur Vladislav Fialka frá Tékkóslóvakíu.
Marx-lenínistar tengja listiðkun þjóðarinnar við stéttarstöðu og íslenska þjóðfélagsgerð. Auðvaldið á Íslandi er sterkt og hin borgaralega list er yfirgnæfandi.
Leikhús, bókaútgáfa, kvikmyndun, myndlist, - lýsir þetta lífi og baráttu vinnandi alþýðu - vekur það hana til baráttu?
Nei, lífsflótti, vangaveltur einstaklingsins, tilgangsleysi lífs, hreyfingar, baráttu - þetta er oftast boðskapurinn. Andstæða borgaralegrar listar finnst vissulega á Íslandi. En í smáum stíl.
Lönd sósíal_smans, og alþýðubaráttunnar eins og Kína og Vietnam nota listina í þágu baráttunnar - list sem "sérfræðingar" Morgunblaðs og Þjóðvilja fýla grön yfir og segja einfalda, barnalega og einhæfa.
Sýningar Tientsin flokksins og Fialka-flokksins sýndu mun þessarra tveggja liststefna í hnotskurn. Sýning kínverska listafólksins einkenndist af lífsgleði, dirfsku og skírskotun til alþýðulýðveldisins Kína. Í undirbúningi að sýningunni flétta félagarnir frá Kína saman pólitískri skólun og list sinni.
Sýning tékkneska flokksins einkenndist af drunga og hálf-innantómum sjónhverfingum. Tæknileg fullkomnun faldi ekki ömurlegt innihaldið - "fáránleika og tilgangsleysi lífsins". Hvergi örlaði á ádeilu.
Í Kína ræður vinnandi alþýða - alræði alþýðunnar. Í Tékkóslóvakíu ríkir alræði ríkiskapítalista, sem lafa í skjóli sovéskra innrásarherja. Sá er munurinn.
Meðan listamenn í Tékkóslóvakíu leggja ekki sitt af mörkum til að þróa hreyfingu verkalýðs og alþýðu þar til höfuðs afturhaldinu, þá þjóna þeir ríkjandi stétt.

# „SÓSÍALISTINN" GUÐM..J OG AB

Mörg orð hafa birst á síðum Þjóðviljans um "ábyrgð verkalýðsforingja" og "stéttvísa forystu" - enda svo, að stéttasamvinna og svikapólitík ASÍ og Dagsbrúnarforystunnar er undirstaða verkalýðsmálastefnu Alþýðubandalagsins.
Hvorki tal Björns Jónss. og Snorra Jónssonar um samábyrgð endurskoðun vinnumálalöggjafarinnar né þvættingur Eðvarðs þingmanns um "greiðslugetu atvinnuveg anna" vekur nein andsvör hjá málgagni "sósíalisma og þjóðfrelsis".
Þingsæti, bitlingar, embætti og há laun eru í veði.
Þegar svo Guðmundur J. Guðmundsson, varaform. Dagsbrúnar ræðir athugasemdalaust um réttmæti þess að flytja inn tyrkneska verkamenn í óþrifalegustu störfin, leiðir Þjóðviljinn það snyrtilega hjá sér.
Nú er aðstoð við arðrán á erlendum verkalýð ekki stefnuskráratriði Alþýðubandalagsins.
Og varla er flokkurinn á máli hjá þeim, sem hrekja tyrkneskan verkalýð í örbirgð heima og erlendis.
Því hlýtur þetta að benda á hvílíkt klíkufyrirbrigði AB er - flokkur gegnsýrður borgaralegri stefnu.
Svona langt getur endurskoðun marxismans leitt AB-foringjana. Er ekki mál að linni?

# ÍSLAND OG SÞ

Enn einu sinni hefur ríkisstjórn auðvaldsaflanna hér á landi sýnt sitt rétta andlit. Þegar atkvæði voru greidd um tillögu 3ja heimsins um Síonismann á þingi Sameinuðu þjóðanna (SÞ) greiddi hún atkvæði gegn tillögunni. Nú keppist hægri pressan við að birta grátklökkar yfirlýsingar gyðinga, bandaríkjaforseta o.fl. um að SÞ séu orðnar aðalmiðstöð gyðingahaturs í heiminum.
Það er helber lygi að tillaga þessi snúist um gyðingahatur. Hún var fyrst og fremst borin upp til þess að fordæma útþenslustefnu Síonistaklíkunnar í Palestínu þar sem "Ísrael" hefur rekið palestínsku þjóðina frá ættjörð sinni og beitt hana grófri kynþáttakúgun.
Viðbrögð auðvaldsríkjanna eru ekkert undarleg því Gyðingar hafa geysimikil ítök í fjármálalífi flestra þessara þjóða og því mikilvægt fyrir þær að hafa þá góða til þess að geta haldið áfram arðráni sínu á verkalýð þessara landa og í þriðja heiminum. En þegar svo 3ja heimsins standa saman á vettvangi SÞ til þess að mótmæla ofríki og yfirgangi þá fá þau það framan í sig að þau séu gyðingahatarar! Ekki bara það, heldur gengur það svo langt að Bandaríkjaþing hótar að skera niður fjárveitingar til SÞ því ef alþjóðasamstarf er ekki auðvaldinu í U.S.A. í hag þá vill U.S.A. ekkert alþjóðasamstarf. Ameríska auðvaldið vill auðvitað ekki missa af væntanlegum olíugróða í Palestínu og auk þess er hergagnamarkaður þess mikill á þessum slóðum. En ameríska auðvaldið stendur höllum fæti gagnvart ríkjum 3ja heimsins og því tekst ekki að rétta úr kútnum, hvorki með hótunum né innantómum slagorðum um gyðingahatur o.þ.u.þ.

NIÐUR MEÐ KÚGUN AUÐVALDSRÍKJANNA Í ÞRIÐJA HEIMINUM!

STYÐJUM ÞJÓÐFRELSISBARÁTTU PALESTÍNUBÚA!



# Norræn samvinna auðhringa

Íslenst einokunarauðvald beitir ríkisfulltrúum til að efla eigin hag.
Fulltrúar allra flokka af Alþingi í Norðurlandaráði eru nú sammála um nauðsyn samnorræns fyrirtækis er nefnist "Norræni fjárfestingarbankinn".
Hvers konar banki er það?
Samkvæmt forseta Norðurlandaráðs, Ragnhildi Helgadóttur er markmiðið að auðvelda "efnahagssamvinnu" og fjárfestingar á Norðurlöndum, þeim til framþróunar. Þetta lítur ef til vill vel út í Morgunblaðinu og munni lýðskrumara Norðurlandaráðs. En ef skyggnst er að baki lýðskrumsins sést hvað um er að vera.
Eiokunarauðvald Norðurlanda styrkir tengsl sín, auðveldar gróðasókn í hvors annars landi og reynir að stýra þróuninni þannig að hámarksgróði allra auðsamsteypa sé tryggður. Norsk Hydro fær að reisa efnaverksmiðju á Íslandi gegn aukinna fisksölu SÍS/SH í Noregi. Sænsk fyrirtæki fá að fjárfesta í Grænlandi o.s.frv.
Afleiðingin hlýtur að vera sú sama:
Arðrán eykst, ásókn í auðlindir eykst, vinnandi alþýða og nýlendur (Grænland, Færeyjar) blæða.
Þetta er raunverulegt markmið með "samvinnu". Meðan Norræni fjárfestingarbankinn og önnur slík fyrirtæki eru undir stjórn ríkisauðvaldsins mun svo verða.
Þróun einokunarauðvaldsins þjappar vinnandi alþýðu Norðurlanda saman undir forystu verkalýðsins. Kjör alþýðu og baráttustaða og sjálfsákvörðunarréttur þjóða er í veði.
Því segjum við:
NIÐUR MEÐ NORRÆNA FJÁRFESTINGARBANKANN!
LIFI VINÁTTA OG SAMVINNA ALÞÝÐU NORÐURLANDA Á HENNAR EIGIN GRUNDVELLI!

# FRANCO ÁVINI

Eftir ákveðnum leiðum höfum við frétt, að ein vakt lögreglunnar í Reykjavík hafi samþykkt stuðningsyfirlýsingu við Frankó-alræðið og dauðadómana yfir and-fasistunum fimm.
Yfirmenn lögreglu komu í veg fyrir að yfirlýsingin væri send út til þess að "afstýra vandræðum".
Líklega eiga þessir aðilar auðvelt með að stunda persónunjósnir sem viðgangast meðan á alls kyns andófs- og kröfuaðgerðum stendur. Nafngreindir lögreglumenn með aðdráttarlinsur stunda meðal annarra þessa iðju.
Á meðan heldur Alþýðubandalagið áfram að prédika "friðsamlega og lýðræðislega" baráttu, og heldur því jafnvel fram í ritstjórnargrein í Þjóðviljanum, að fasisminn hafi dáið með Frankó"!
Hvað ætla menn að gera, þegar vinir Frankós á Íslandi sleppa myndavélunum og taka upp önnur tæki?

# UM SJÓMANA VERKFALLIÐ

Nú um nokkurt skeið hefur ríkisauðvaldið gengist fyrir því að draga af aflaverðmæti fiskiskipa verúlegan hlut og síðan látið hann ganga til styrktar útgerðinni. Þessir sjóðir eru t.a.m. stofnfjárgjaldssjóður, en í hann er látið ganga 15% aflaverðmætis. Hann er notaður til að fjármagna togarakaup, tryggingasjóð ur fiskiskipa, en greiðsla til hans skal ekki vera hærri en 15% af aflaverðmæti skips á ári, einnig er til fiskimálasjóður og nokkrir fleiri. Það eru gífurleg ar upphæðir sem renna til þessa sjóðakerfis og í reynd ekkert annað en beinn gróði útgerðarmanna, en gagnvart sjómönnum er sjóðakerfið ekkert annað en beint kjararán (minna til hluta skipta ) Þetta var annað atriðið sem sjómenn börðust gegn.

Hitt var fiskverðið. Er hækka átti fiskverðið 1. okt. sl. tók verðlagsráð tvær megin ákvarðanir. Önnur var að hækka þann stærðarkvarða sem notaður er við mat á fiski.

Þetta þýðir að meðalstór fiskur er nú dæmdur smár og allir vita að verð á smáfiski er mun lægra en á stórum. Verð á smáum fiski var síðan látið standa í stað, en hækkað lítillega á stórum fiski ca. 3.5 %. Hluturinn er meginuppistaða kaups sjómanna og standi fiskverðið í stað á stærstum hluta aflans þýðir það ekkert annað en að verðlagsráð ákveður að fyrirhuguð kauphækkun sjómanna skuli engin verða. Og þetta samþykkir fulltrúi sjómanna. Það sem meira er, FFSÍ lýsti yfir fyllsta trausti á fulltrúa sinn í verðlagsráði, meðan á verkfalli stóð.

Það er því ljóst, þrátt fyrir loðnar málamyndastuðningsyfirlýsingar, hver afstaða forystunnar var þ.e.a.s. stuðningur við ákvarðanir verðlagsráðs. Stéttarsamvinnuforustan var hundsuð við boðun verkfallsins, enda sýndi hún sig ekki í öðru, en að virka drepandi á baráttuna.

Hver var svo árangur þessarra aðgerða sjómanna? Hann reyndist harla lítill. Þó Þjóðviljinn hafi lýst því yfir að þarna hefði unnist stórsigur.

Sjómenn fengu loforð ríkisstjórnarinnar um endurskoðun sjóðakerfisins, en þarf nokkur að búast við efndum, frekar en endra nær? Nei það hefur reynslan sýnt. Varðandi fiskverðið fékkst fram, að ef þessi lítilfjörlega fiskverðshækkun dygði ekki til að halda í við landverkafólk, skyldi greiða uppbót í árslok Þessi var "stórsigur" Þjóðviljans. Hver er orsök þess, að baráttudugurinn reyndist ekki meiri og hverjir stóðu að þessum aðgerðum,? Það voru undir- og yfirmenn á fiskiskipum, og sá hluti útgerðarmanna, sem ekki eru jafnframt fiskkaupendur. Þessar aðgerðir beindust gegn einokunarauðvaldinu þ.e.a.s. hringjum fiskkaupenda, sölumiðstöðva hraðfrystihúsanna og SÍS. Stór hluti LÍÚ (útgerðarmenn) eru jafnframt fiskkaupendur og því ekki furða þó þeir samþykki (eða þeirra fulltrúaráð í verðlagsráði) svo til óbreytt fiskverð vegna þess að: Því lægra sem fiskverð er, því minna í hlut sjómanna. En einokunarvana auðvald er í hæsta máta ótryggur bandamaður vinnandi fólks. Mestar líkur eru til, að ríkisvald einokunarauðvaldsins hafi á einhvern hátt friðað hina óánægðu útgerðarmenn, og þar með hafi samstaðan verið úti. Forysta sjómanna og allar baráttuaðstæður hafa verið það slæmar, að þeir hafa ekki séð annað fært en gefast upp.

Þetta bendir hins vegar á að nú þurfi sjómenn að efla baráttuþrek sitt, halda áfram að hundsa stéttasamvinnuforustuna og smiða samstöðu allra þeirra sem geta og vilja berjast einarðlega fyrir hag vinnandi sjómanna.

NIÐUR MEÐ SJÓÐAKERFIÐ!
FULLAR KJARABÆTUR MIÐAÐ VIÐ VERÐBÓLGU!
TIL BARÁTTU GEGN STÉTTASAMVINNUNNI!



Auðvaldið heldur áfram ránsherferð sinni á náttúruauðæfunum. Það kippir tilverugrundvellinum undan alþýðu landsins. Í höndum auðvaldsins eru þessir stóru skuttogarar andstæðir hagsmunum alþýðu.

## Landhelgismálið

# ENGA SAMNINGA

### BARÁTTA GEGN ALLRI RÁNYRKJU – INNLENDRI SEM ERLENDRI !

Eins og alþjóð mun kunnugt takast nú á tvö meginsjónarmið í landhelgismálinu. Annarsvegar er sú afstaða eiokunarhringjanna (SÍS, SH o.fl), heildsala og ríkisvalds þeirra að nauðsyn sé samninga við breta og V-þjóðverja um fiskveiðiheimildir innan 200 og jafnvel innan 50 mílnanna. Kemur þar til að þessir aðilar hafa dægilegan gróða af viðskiptum við þessar þjóðir. Hins vegar það sjónarmið sem flest alþýðufólk aðhyllst, eins og skiljanlegt er, að vernda beri fiskimiðin við landið fyrir allri rányrkju, innlendri sem erlendri, og tryggja yfirráð (þ.e. landhelgi) íslendinga yfir landgrunninu. Í nýlega útkominni skýrslu fiskifræðinga segir að helmingur ísl. flotans verði að leita á önnur mið en þau íslensku. Það er því augljóst að allir samningar um veiðileyfi til handa erlendum yfirstéttum, sem nú vígbúast gegn íslendingum eru svik.

Það er auðvitað að ekki skal semja. Lífið í landinu byggist á því að alþýðan hafi atvinnu, að eitthvað sé framleitt. Fiskimiðin verður að vernda fyrir innlendum og erl. aðilum og það gerir enginn annar en alþýðufólk, sjómenn, verkafólk og annað vinnandi fólk.

Nú bólar á baráttuhreyfingu í þessu efni. EIK(m-l) sendi í seinnipart októbermánaðar fjölmörgum alþýðusamtökum bréf þar sem hvatt var til sameiginlegra aðgerða hinn 13. nóv, en þá runnu út svikasamningar fyrrverandi "vinstri stjórnar" við breta. Aðeins stúdentar sýndu þann manndóm að bregðast við þessu herkalli. Þann 13. nóv. sendi svo EIK(m-l) sömu aðilum bréf þar sem hvatt var til stofnunar "landhelgisnefndar". Virðast fleiri ætla að bregðast vel við því, eða samtökin vinstra megin við Alþýðubandalagið, stúdentar í Háskólanum og Kennaraháskólanum og nemendur Vélskólans og Stýrimannaskólans. Ef til vill hafa þessir tilburðir EIK(m-l) einhversstaðar hreyft þanka því nú hefur stjórnarandstaðan ásamt ASÍ, Farmanna og fiskimannasambandinu, Verkamannasambandinu og e.t.v. fleiri sett saman nefnd til varnar öllum samningum við breta og v-þjóðverja. Þetta er vissulega ánægjuefni og trúlegt að "landhelgisnefndin" reyni að fá inngöngu í þetta stóra samflot, í þeim tilgangi að koma í veg fyrir að það endi í þingmannaklúbbi, heldur verði að raunverulegri baráttusamfylkingu sem beitti sér ekki síður að innlendri en erlendri rányrkju. Hér duga engar bænir, hinn almenni maður hefur engan valkost annan en beita sér í baráttunni í þessu brýna máli.

 

## BURT MEÐ.....frh. af forsíðu

Innan BSRB eru ólíkir hópar,sem alls ekki eiga samleið, en það þýðir ekki að rétt sé að útiloka BSRB fólk fullkomlega frá faglegri samfylkingu,eins og gert er t.a.m. í BSV í R.vík. Það er ljóst að aðeins það fólk í BSRB,sem hefur beina samstöðu með verkalýðnum ,munu taka þátt í starfi BSV,aðrir ekki.

## Reynslan af andstöðuliðum

Nokkrar tilraunir hafa verið gerðar til að stofna andstöðulið gegn stéttasamvinnunni,en allar mistekist nema Baráttusamtök launafólks á Akureyri,(BSL). Orsakirnar hafa fyrst og fremst verið slæmt skipulag,ríkjandi "vinstri"-hentistefna,auk greinilegra tengsla við ein ákveðin pólitísk samtök,þ.e.Fylkinguna. Hugmyndir um tilgang þessara samtaka voru mjög á reiki,jafnvel talið hugsanlegt að stofna ný verkalýðsfélög.

Hvers vegna hefur BSL ekki farið sömu leiðina og t.d. Rauð Verkalýðseining? Fyrst og fremst vegna þess,að þar vann sú stefna sigur,að kröfur og stefna samtakanna skyldu vera við það miðaðar,að reyna að ná til verulegs hluta vinnandi fólks á Akureyri,en ekki snúið sér að fyrirfram sannfærðum litlum hópi,þ.e.kröfur og stefna samtakanna væru stórum fjölda skiljanlegar og þær þjónuðu hagsmunum hans,en um leið framsæknar og árangurstryggar. BSL hefur því ekki hlaupið á undan fjöldanum.

Þá er skipulag BSL í dag liðsmannasamtök,en stefnt er að deildaskiptingu eftir stéttarfélögum, en félagar BSL gerðu sér grein fyrir að slíkt væri alls ekki tímabært strax, vegna þess hve andstaðan væri fámenn ennþá.

BSV í R.vík er vissulega mjög jákvætt skref,þó við sjáum marga galla á skipulaginu og stefnu samtakanna. Með útilokun BSRB er töluverður hópur ísl.öreigastéttar útilokaður. Skipulag,samkvæmt bráðabirgðagrundvelli,er óljóst. Um það er ekki annað sagt en "BSV mun stefna að myndun virkra andstöðuhópa innan verkalýðsfélaganna." Hvergi er minnst á liðsfundi eða félagafundi eða hlutverk framkvæmdanefndar. Það virðist grundvöllur fyrir stofnun skipulegs andstöðuhóps innan Dagsbrúnar,en ekki annara stéttarfélaga,sem stendur.

## Hvað verður að gera?

Jafnframt því sem við undirbyggjum stofnun andstöðuliða í öðrum stéttarfélögum,sem vissulega er nauðsynlegt,verður BSV í

frh. á bls. 6



# Verkfallsréttur OPINBERRA STARFSMANNA

## BORGARALEG FORYSTA

Athuganir sýna að meirihluti félaga BSRB taka laun á bilinu 50-90.000 kr. Margir þeirra eru skrifstofumenn,tæknimenntað verkafólk og ýmis konar þjónustuaðilar.Um er að ræða samherja verkalýðsins,þrátt fyrir launamun, - andstæðingurinn er sá sami,undirokunin svipuð. Það er fyrst og fremst klofningsstarfsemi atvinnurekenda,stórauðvalds og forystu ASÍ/BSRB,sem hefur att ólíkum hópum öreiga hvorum gegn öðrum. Launa- og aðstöðumunur er ein aðferðin,sem notuð er til að sundra.BSRB hefur ekki verkfallsrétt - ein grundvallarréttindi kjarabaráttunnar.

### HVAÐ BER AÐ GERA?

BSRB hefur aldrei barist skelegglega fyrir verkfallsrétti,allrasíst þegar Framsókn og Alþýðubandalag hafa hrekkt vinnandi alþýðu með sviksamlegum "vinstri"stjórnum.Sambandið hefur látið það viðgangast að Kjaradómur skammti launin. BSRB skipaði fulltrúa í Kjaradóm,viðurkenndi hann þar með,þrátt fyrir að ríkið hafi hreinan meirihluta í dómnum og hann þjóni í einu og öllu sem stéttardrottnunartæki borgarastéttarinnar. Nær allar kjaradeilur opinberra starfsmanna, nema lækna og flugmanna, hafa farið sjálfkrafa til Kjaradóms,einfaldlega vegna þess að ríkið ansar ekki kjarakröfum BSRB og BHM(háskólamenn) og samböndin hafa engan lögleiddan rétt til þrýstiaðgerða,svo sem verkfalla.

Ekki bætir úr skák að flestir háskólamenntaðir launavinnumenn klufu sig út úr BSRB vegna óánægju og settu óvirka skrifræðisnefnd á laggirnar, þar sem BHM er.

### HVAÐ HEFUR BREYST NÚ NÝVERIÐ? HVERS VEGNA HEFST NÚ ALLT Í EINU BARÁTTA FYRIR VERKFALLSRÉTTI?

Svarið er fólgið í tvennu. Annarsvegar þolir þorri félaga BSRB og BHM ekki frekari kjaraskerðingu (framfærslukostnaður 4manna fjölskyldu er nú um 105-120 þús. á mán.) og heimtar harðari baráttu.Hins vegar vill forystan treysta sig í sessi og notar BSRB í þingræðisbaráttu þeirra borgaralegu "alþýðuflokka",sem þeir standa framarlega í - þeir vilja fella stjórn Geirs.Vilji þeirra til ólöglegra verkfalla stjórnast ekki af baráttuhug í þágu launþeganna.Enda kemur í ljós að samtímis því sem almennir félagar vilja bæði setja fram réttmætar kaupkröfur og kröfu um verkfallsrétt, makkar BSRB-forystan við viðsemjendur,vill slá af kaupkröfum,"missa ýmis hlunnindi" útá réttinn og breyta lögum um verkföll í samræmi við stéttasamvinnuhugmyndir vinnuveitendasambandsins og hlaupatíkanna í ASÍ.Þeir vilja líka vísitölu eftir "burðarþoli atvinnuveganna"! Félagsmenn vilja aftur á móti yfirleitt ólögleg verkföll þegar í stað í ætt við þau,sem færðu t.d.kennurum Flensborgarskóla sigur um daginn og enga eftirgjöf.

Í komandi kjarabaráttu eru forsendur fyrir bættri samstöðu hópa öreigastéttarinnar,eins og t.d. verkafólks og láglaunaðra ríkis- og bæjarstarfsmanna. Við það og eitilharða baráttu gegn ríkisvaldi afturhaldsins verður að miða stefnu mótun innan BSRB og BHM. Nokkur atriði í því sambandi.:

1. Hundsa verður Kjaradóm og krefjast upplausnar hans. BSRB og BHM hafa dregið fulltrúa sína úr dómnum.
2. Krefjast verður að laun hækki þannig að kaupmáttur verði a.m.k. sá sami og vorið 1973(um 50% hækkun).
3. Krefjast verður óskerts verkfallsréttar og berjast gegn breytingu á vinnulöggjöfinni vinnandi alþýðu í óhag.Æfiráðning falli brott.
4. Vinna verður að því að útrýma stéttasamvinnunni úr BSRB og BHM - fyrst í stað með því að afhjúpa forystuna og slást fyrir stéttabaráttulínu þar.
5. Vinna verður að því að leggja BHM niður,skilja atvinnurekendur og fasteignabraskara(t.d. úr verkfræðinga- og lögfræðingafélaginu) frá launavinnufólki BHM og koma aðilum sömu starfsgreina saman í kjarabaráttufélög,t.d. öllum kennurum,innan BSRB.

ÞETTA ERU BRÝN VERKEFNI ÖLLU FRAMSÆKNU FÓLKI INNAN BSRB OG BHM.



Guðmundur J. og Karl Steinar Guðnason - "forysta" verkamanna.

Nokkur átök urðu á þingi Verkamannasambandsins. Deilt var um baráttuleiðir. Kratarnir sigruðu og heldur því áfram stéttasamvinnuflotinu við ASÍ. Þeir sem vildu slíta samflotinu við ASÍ og heimta samningana heim í félögin voru fleiri nú en áður. Það verður að skipuleggja andstöðuna við stéttasamvinnustefnu forystunnar.

dag að byggjast í ríkum mæli í kring um hópstarf, svo sem starf að mótun stefnu og krafna samtakanna,vinnslu og dreifingu fregnmiða eða blaðs,undirbúning fjöldaaðgerða,uppbyggingu á dreifingarkerfi, undirbúningi fyrir fundi í stéttarfélögunum,o.s.frv. Andstöðuhópar innan stéttarfélaganna og á vinnustöðum eru yfirleitt ekki til staðar núna(að Dagsbrún undanteknu). Verkefnið til að byrja með er að vinna að stofnun þeirra og við verðum að miða skipulagið við það.

Nú eru samningar lausir í flestum verkalýðsfélögum. Stéttasamvinnupáfarnir eru byrjaðir að prédika um hið slæma ástand í auðvaldsbúinu.Nauðsyn virkrar og harðrar baráttu er brýn, og nauðsynlegt er að setja fram kröfur,sem eru hvort tveggja í senn: Augljósar hverjum sem er og vænlegar til að nást í gegn um leið og þær færa verkafólki miklar kjarabætur og sigur yfir stéttasamvinnunni.

## Kröfur EIK(m-l)

1. Lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku.
2. a) Fullar vísitölubætur á laun.Þær reiknist mánaðarlega.
b) Bætur greiðist,sem jöfn krónutala á öll laun,miðað við framfærslukostnað
c) Unninn verði upp nýr vísitölugrundvöllur,með tilliti til breyttra neysluvenja(núgildandi er frá '65) og bætur greidda samkvæmt honum óskertum.

# ÁTÖK Á 14.ÞINGI AN

## VIÐTAL VIÐ JÓN ÁSGEIRSSON

Um mánaðarmótin okt./nóv var haldið á Akureyri 14. þing Alþýðusambands Norðurlands (AN). Urðu þar sviptingar út af stefnunni í verkalýðsmálum og stjórnarkjöri, og skipust fulltrúarnir í tvær skýrar fylkingar. Það bar helst til tíðinda að fyrrverandi formaður AN, Jón Ásgeirsson, féll í kosningu fyrir Jóni Karlssyni frá Sauðárkróki með 38 atkvæðum gegn 36. Tíðindamaður Verkalýðsblaðsins hafði í tilefni þessa stutt viðtal við Jón Ásgeirsson, sem hér fer á eftir.

Sp.: Af hverju kom fram mótframboð í stjórn AN?
Jón: Að mínu mati er þar á ferðinni tvennt; í fyrsta lagi vinna þessir aðilar markvisst að því að stöðva það að Alþýðusamband Norðurlands geti markað útávið þá stefnu sem verkalýðsfélögin innan sambandsins tóku upp 1974. Hún felst f. og fr. í því að samningar skuli fara fram hér heima. Með því verði samningarnir í nánari tengslum við verkafólkið, hina alm. félagsmenn, og reynt sé að koma í veg fyrir aukningu miðstjórnarvalds í verkalýðshreyfingunni, sem orðið hefur á síðari árum. Í öðru lagi er pólitíska hliðin. Þar sýnir sig að hin "frjálslyndu" "vinstri" öfl taka upp samvinnu við afturhaldið og opinbera þar með að þeir eru litlir vinstri menn eða fulltrúar verkalýðshreyfingarinnar.

Sp.: Hver voru aðalágreiningsmál þingsins?
Jón: Í raun var það þetta um samningavaldið og það hvert framtíðarhlutverk sambandsins ætti að vera. Á yfirborðinu var þetta deila um fjármál. Þeir komu í veg fyrir auknar borganir til sambandsins sem þýddi að starfssvið þess yrði þrengt. Útkoman var fyrst og fremst sú að sambandið skal aðeins hafa hálfs dags starfsmann og að sambandið verði ekki aðili að samningum með umboð frá félögum, eins og verið hefur. Ég sé ekki betur en starfsgrundvöllur þess sé orðinn að engu. Það var reynt að ná samstöðu við andstæðinga okkar bæði um kjaraályktanir og stjórnarsamstarf þar sem þeir fengju einhverja fulltrúa. Því var hafnað og þeir settu alveg sem skilyrði að skipt yrði um formann.

Sp.: Hverra sigur er þetta?
Jón: Í sjálfu stjórnarkjörinu eru það hægri öflin í verkalýðshreyfingunni sem fá þarna stjórnarmeirihluta. Þetta er skipulagt af þeim, og ástæðan er sú að félög þessi hérna norðanlands hafa haft mjög einarða stefnu í kjaramálum gagnvart núverandi þjóðfélagsástandi. Aukið miðstjórnarvald í verkalýðshreyfingunni er jú afturhald, og undanslättur í kjaramálum er stefna þeirra sem vilhallir eru afturhaldi og atvinnurekendum í raun. Nú, einarður stuðningur flestra félaganna utan Akureyrar var svo mikill sigur fyrir gömlu stjórnina.

Sp.: Hefur þá ekki minnkað fylgið við stefnu fráfarandi stjórnar í verkalýðsfélögum á Norðurlandi yfirleitt?
Jón: Nei, það hefur ekki reynt á fylgi þessarar almennt fyrr en nú. Hún var mörkuð eftir síðasta þing. Á síðasta þingi var meira kosið um persónur og þá voru fylkingar tiltölulega jafnar. Síðan hefur það gerst, að þeir hafa unnið forystu í Verkalýðsfélaginu Einingu og hún hefur þarna heila 18 fulltrúa. Auk þess fjölgaði fulltrúum Verslunarmannafélagsins á Akureyri um 3 og þar er allt hægra megin. Staða okkar hefur því raunverulega styrkst töluvert, því enn eru fylkingarnar nærri hnífjafnar.

fréttaritari Akureyri.

## KRÖFUR EIK(m-l) frh. af 5

3. Atvinnurekendur hverfi burt úr stjórnum lífeyrissjóðanna. Lífeyrissjóðirnir verði nýttir í þágu vinnandi fólks.
4. Gegn verðbólgu og kjararánspólitík ríkis og atvinnurekenda.
5. Jafnrétti kynja til starfs og launa.
6. Skattfrjáls þurftarlaun - burt með söluskatt af nauðsynjum.
7. Gegn síaukinni miðstýringu. Samningana í félögin; - aukið lýðræði við samningsgerð.
8. Gegn fyrirhuguðum breytingum á vinnumálalöggjöfinni.
9. Verkfallsrétt til handa BSRB.

## KJARARÁÐSTEFNA

Helgina 29.-30. nóv gangast Baráttusamtök verkafólks (BSV) fyrir kjaramálaráðstefnu verkafólks. Verða þar rædd eftirfarandi mál: Kjarakröfur í komandi samningum, skatta-og húsnæðismál, ASÍ og samningsvaldið og vinnumálalöggjöfin. Ráðstefnan er haldin í Lindarbæ.

## SÓSÍALHEIMS-VALDASTEFNAN

Eru Sovétríkin að hjálpa Portúgölum til að byggja sósíalismann? Nei, þeir eru að styrkja auðvaldið og leita að gróðauppsprettu fyrir sovésku skrifræðispáfana og ríkisauðvaldið. Kreppa vestræna auðvaldsins, endurskoðunarsinnarnir portúgölsku og bakhjarl þeirra, borgararnir, opnar sovétkapítalistunum leiðina inn í Portúgal. Sósíalheimsvaldasinnar ráða nú t.d. skipasmíði Portúgala, vínútflutning, (keypt undir markaðsverði) og æ stærri hluta innflutnings. Meira og meira menningarefni kemur að austan til Portúgal. Andstaðan gegn Sovétríkjunum er kæfð með valdi. M.a.s. Reuter-fréttastofan reynir að þegja í hel fjöldagöngur tugþúsunda sem mótmæla íhlutun USA og Sovétríkjanna.
Samtímis sem endurskoðunarsinnarnir komu í veg fyrir, að opinberuð yrðu nöfn helstu fasista, studdu þeir að banni á andfasískum og marx-lenínískum flokkum og handtökum á félögum þeirra.

Hinir fölsku kommúnistar hafa jafnvel sest við hlið einokunarherra í embættum ríkisins og stjórnum fyrirtækja. Einnig reyna þeir að virkja fjöldahreyfinguna sem heimtar róttækar breytingar í alþýðunefndum, sem eru nafnið tómt. Þannig er sósíalismi orði, en fasismi í verki. Auðvaldið í Portúgal styður þetta að mestu, það óttast ekki samvinnuna við Sovétríkin, þvert á móti.
"Kommúnistarnir" eygja feita bita, en Sovétríkin leppríki á borð við Tékkóslóvakíu, sem gæti verið leiksoppur heimsvaldastefnu þeirra og stökkpallur til frekari átaka í Evrópu.

Hvert stefnir?

"Byltingin" portúgalska er hvorki lýðræðisbylting gegn fasisma né sósíalísk bylting. Flest lýðréttindi eru fótum troðin og kjör versna. Andstæðingar afturhaldsins, Sovétríkjanna og endurskoðunarsinnanna afhjúpa gerræðið.

## Frá ritstjórn

Vegna rúmleysis varð ritstjórn að geyma álitlegan fjölda greina til síðari tbl. VERKALÝÐSBLAÐSINS.
Hér er um að ræða greinar t.d. um byltingarsinnaða utanríkisstefnu Kína, um strætisvagnakerfið í Rvk, og um hinn sænska bróðurflokk EIK(m-l) - Kommúnistaflokk Svíþjóðar, SKP.
Lesendur eru beðnir velvirðingar á þessu. Eina lausnin er auðvitað sú að blaðið nái að stækka, bæði að blaðsíðutali og umfangi. Og þar er helst að styðjast við lesendur, áskrifendur og alla velunnara blaðsins.
Sem sagt:
EFLID VERKALÝÐSBLAÐIÐ!

Sósíaldemókrataflokkurinn er ekki framsækinn, heldur málsvari kapítalismans. En hann er líka málsvari borgaralegs lýðræðis, sem er andstæða þróunarinnar í Portúgal. Hinum raunverulegu byltingaröflum, verkalýð, minni bændum og allri vinnandi alþýðu, er a nauðsyn á að tryggja sér hlutleysi krataforystunnar og samstöðu fylgismannafjölda hennar. Þróunin safnar nú andstæðingum ríkisins, sósíalheimsvaldasinna, USA og portúgalsks auðvaldssaman í fylkingu. Markviss barátta raunverulegra alþýðunefnda og marx-lenínískra hópa hjálpar til. En einhlítt forystuafl eða samfylking er ekki enn til né heldur er komið byltingarástand í Portúgal. En það er skammt undan.
Sósíalismi í Portúgal er eina endanlega lausn á vandamálum sósíalfasískrar þróunar - samfylking alþýðu undir forystu verkalýðs og sannra kommúnista mun reisa sósíalískt Portúgal.
Vopnuð barátta fyrir alþýðuvöldum gegn samsteypu auðvalds, risaveldanna tveggja og endurskoðunarsinna er fyrsta skrefið.
Vörumst falskar fréttir frá Portúgal. Vörumst villukenningar Alþýðubandalagsins um "friðsamlega leið Portúgals til sósíalisma. Vörumst trotskisma Fylkingarinnar, sem gagnrýnir endurskoðunarsinnana fyrir að vera ekki nógu róttækir og fela íhlutun Sovétríkjanna.

STYÐJUM PORTÚGALSKA ALÞÝÐU GEGN AFTURHALDINU OG HEIMSVELDUNUM!



# „SÓSÍALISMINN" í Portúgal

...ðubandalagið ver nú ... "byltinguna" í Port- ... og hrósar "Kommún- ...flokki" landsins mjög ... þátt þeirra í að ...eisa það sem þeir kalla sósíalisma.

## Valdataka eða bylting?

Valdataka "frjálslyndra" hershöfðingja í apríl 1974 átti sér stéttarlegar orsakir. Að baki hershöfðingjunum stóðu

forystu verkalýðsins. Þeir notfærðu sér því endurskoðunarstefnuna. "Kommúnistaflokkurinn" var leyfður náð í leiðtogana til Moskvu og þeim úthlutað embætti innan ríkisvaldsins. Áróðursherferð um "alþýðuvöld" var sett af stað, alls kyns eignarnám gert á vegum borgaralegs ríkisvalds, en baráttutilraunir alþýðu brennimerktar sem "ögrun og svik". Eftir að tor-




auðvaldsöfl. Fasismi Caetanosstjórnarinnar hentaði ekki aðstæðum. Nýlendurnar stóðu á þröskuldi sigurs, vanþróaður iðnaður, lág framleiðni, hálf-lénskur landbúnaður og óheyrileg styrjaldarútgjöld ógnuðu stöðu yfirstéttarinnar. "Byltingar" var þörf - ekki til að öreigastéttin næði völdum, því það þýðir endalok kapítalismans, heldur djúpstæðra breytinga til að "bjarga" kapítalismanum úr ógöngum. Borgaralega ríkisvaldið varð að breyta um yfirbragð og aðferðir til að styrkja sjálft sig og borgarastéttina. Ástandið í Portúgal skóp víðfeðma alþýðuhreyfingu, sem heimtaði lýðréttindi, betri lífskjör og meiri völd. Í ljósi þessa verður að athuga "byltinguna með blómið í byssuhlaupinu". Borgarastéttin tók það ráð að láta að nokkru undan alþýðunni, lofa "enduruppbyggingu", losa sig við Caetanó-liðið en auka um leið ítök sín, arðrán og stéttasamvinnuna. Vinnandi alþýða var krafin um "sparnað, meiri vinnuhörku og aga"- "Styðjið ríkisstjórnina og sósíalískar umbreytingar" sögðu valdhafar. Til að tryggja sem breiðastan stuðning við áætlun sína tryggði afturhaldið sér stuðning sósíaldemókrata, sem vilja "vestrænan sósíalisma" (eins og í Svíþjóð) og endurskoðunarsinna "kommúnistaflokksins". Flokkarnir tveir eru Trójuhestur innan portúgalskrar alþýðuhreyfingar.

## Fulltrúar stéttasamvinnu

Fulltrúar ríkisvalds borgaranna og portúgalska auðvaldið óttast mest öfluga alþýðuhreyfingu undir

tryggni fjöldans, í garð vestræns auðvalds og NATO veikti stöðu sósíaldemókrata, er höfðu unnið yfirburðasigur í kosningum og eftir að róttækni óx hröðum skrefum, nýttu borgarar og endurskoðunarsinnar tækifærið og hröktu kratana úr stjórn að mestu. Yfirstéttin sér, að kjarni endurskoðunarstefnunnar er ekkert annað en styrkari kapíaalismi og "aðstoð" Sovétríkjanna vænlegri en vestræn heimsvaldastefna, bæði til að blekkja fjöldann og styrkja ríkisauðvaldið. Enda sjáum við að það eru endurskoðunarsinnarnir sem leiða baráttuna gegn fjöldahreyfingunni, stjórna nýju öryggislögreglunni COPCON, ráðast gegn verkföllum, þola yfir 10% atvinnuleysi, áframhaldandi búsetu hundruð þúsunda í fátækrahverfum og þvinga með vopnavaldi undir sig stéttarfélög. Og þegar almenningur ræðst gegn flokknum, skilur flokkurinn ekki að raunverulega fasista og baráttufúsa alþýðu, heldur stimplar allan óróa sem "fasískan". Samtímis þessu efla þeir tengslin við Sovétríkin og fylgiríki þeirra sem mest þeir mega.



frh. af bls. 1

## NÁMSSTARF

kommúnista, að hann ekki aðeins í orði taki afstöðu með verkalýðsstéttinni, heldur ekki síður í verki. Niðurstöður fræðilegs náms verður að sannreyna í starfi. Það er einungis starfið sem endanlega sker úr um hvort hugmyndir manna eru réttar eða rangar. Vilji menn gagnast verkalýð og vinnandi alþýðu verða þeir að taka virkan þátt í byltingarsinnuðu starfi.
EIK(m-l) starfrækja námshringi í marx-lenínismanum. Auk náms í sígildum verkum marx-lenínismans gefst þar kostur á fræðslu um stefnu samtakanna. Þó markmiðið með þessum námshringjum sé að efla kommúníska hreyfingu á Íslandi eru engin skilyrði sett fyrir þátttöku, en minnt er á, að EIK(m-l) hefir næg verkefni fyrir þá, sem vilja taka þátt í byltingarsinnuðu starfi og vinna fyrir málstað verkalýðs og vinnandi alþýðu - þjóna fjöldanum.
Hafið samband við EIK(m-l) á skrifstofu samtakanna í Skólastræti 3b. Skrifstofutími er:
mánudaga kl. 16-17
föstudagakl. 17-19
laugardaga kl. 14-16.

KOMIÐ Í STARFIÐ



# ÚR KVENNABARÁTTUNNI 24 OKT.



24.okt. söfnuðust konur saman á Lækjartorgi og víðar um land til að mynda samstöðu og minnast vinnuframlags síns með því að leggja niður vinnu. Samstaðan var geysilega mikil, yfirbragurinn var hátíðlegur, baráttan var ekki höfuðatriðið heldur samstaðan. Enda bar mikið á ilmvatnsfnyk og pelsaþyt. Einingarsamtök kommúnista gaf út dreifibréf þennan dag sem var helgað baráttunni framundan. Hér fer úrdráttur úr dreifibréfinu:

"upphaflega þegar sú tillaga kom fram að konur legðu niður vinnu einhvern dag á þessu ári hér á landi var gert ráð fyrir að það yrði verkfall – en viti menn nú heitir það að taka frí frá störfum. Hvers vegna frí? Jú, vegna þess að hin borgaralega forysta þeirra kvennasamtaka sem standa að undirbúningi dagsins ásamt verkakvennafélögunum og Rauðsokkahreyfingunni töldu sig m.a. ekki þurfa að fara í verkfall til að leggja áherslu á launa og jafnréttisbaráttu á vinnumarkaði og félagslega, heldur aðeins í frí til að sýna fram á tilvist sína".

Nú hefur það nýlega sýnt sig að þær konur sem stóðu meðal annarra að þessum degi þ.e. íhaldskerlingar og aðrar sem eru andsnúnar jafnréttisbaráttu og skipulagningu kvenna, felldu og vísuðu frá tillögu sem borin var upp í borgarstjórn af minnihlutanum um að borgin setti á laggirnar jafnréttisnefnd sem stæði vörð um hagsmunamál kvenna á vinnumarkaðnum, sem á öðrum sviðum þjóðfélagsins.

Þessar íhaldskerlingar hafa alls engra hagsmuna að gæta varðandi stöðu sína annarra en að halda henni óbreyttri, þær hafa það gott og þeim líður vel þess vegna eru þær á móti allri framsækinni kvennabaráttu og er[illegible] heint úr sagt fjandsamlegar allri baráttu kvenna Þess vegna ber öllum konum sem eru hlynntar málstað verkakvenna og vinnandi alþýðu að skipa sér saman í samfylkingu gegn öllum launamisrétti kvenna og bættum kjörum.

Einingarsamtök kommúnista gerðu sérstaka ályktun á stofnþingi sínu um baráttu kvenna sem hefur m.a. verið send verkakvennafélögum og Rauðsokkahreyfingunni, ásamt tillögum um samstarf. Í fyrrnefndu dreyfiriti var einnig hvatning til kvenna um að stefna að myndun baráttusamfylkingar kvenna sem grundvölluð væri á hagsmunum verkakvenna og vinnandi alþýðu. Eina framsækna kvennahreyfingin hér á landi Rauðsokkahreyfingin er ekki reiðubúin í dag til þess að takast á við þau verkefni sem stefnuyfirlýsing hennar kveður á um þ.e. heyja baráttu kvenna með vopnum stéttabaráttu. Þess vegna er nauðsynlegt að Rauðsokkahreyfingin taki þeirri gagnrýni sem fram hefur komið á fyrri störf hennar og starfshætti alvarlegum tökum og geri upp við fyrri mistök. Án skipulagningar kvenna verður engin barátta háð fyrir jafnrétti. Baráttusamfylking kvenna á ekki að hafa yfirlýst sósíalísk markmið, heldur á hún að hafa sjálfstæða línu og og sjálfstætt skipulag og á að berjast gegn hvers konar kúgun sem konur verða fyrir. Slík kvennasamfylking verður að vera áhrifaríkt afl jafnt í baráttu kvenna sem annarri framsækinni þjóðfélagsbaráttu.

## Lítil saga frá 24 okt.

Tvær pelsklæddar, vel greiddar og vel snyrtar konur stóðu saman eins og vera bar á Lækjartorgi 24. okt. sl. Þegar verið var að lesa upp baráttukveðjur frá hinum ýmsu félagssamtökum var klappað mikið. Þegar búið var að lesa upp baráttu-og stuðningskveðju frá Eik (m-l) var klappað mikið sem fyrr og fínu frúrnar litu hvor á aðra, brostu feimnislega eins og skólastelpur, klöppuðu síðan smávegis og pent um leið og önnur þeirra varð að orði: "Það er allt í lagi þó það sé dálítið rautt í dag".

# árás á kjör námsmanna

Námsmenn hafa átt í erfiðri baráttu við ríkisvaldið um kjör sín. Barátta námsmanna hófst er ríkisstjórnin neitaði að afgreiða haustlán samkvæmt reglugerð til námsmanna vegna þess að "engir peningar voru til". Námsmenn hófu baráttu og fengu því framgengt að haustlánin fengjust afgreidd en þó stór hluti þeirra ekki fyrr en í byrjun janúar. En ríkisstjórnin var ekki af baki dottin.

Í fjárlagafrumvarpi sínu leggur hún til að framl lög til Lánasjóðs ísl. námsmanna skerðist um nær 50%!! Námsmenn í öllum framhaldsskólum vissu, að þetta var bein árás á alþýðufólk, þar sem börnum þess var með þessu gert ill-mögulegt að stunda nám sitt. Börn burgeisanna þurftu auðvitað ekki að kvarta enda sjást þess ekki merki, að borgarastéttin hafi þurft að þrengja sultarólina hingað til.

Námsmenn brugðu vel og skipulega við, lögðu undir sig fjármálaráðuneytið í nokkrar klst., lögðu niður nám og stóðu fyrir geysifjölmennum útifundi á Austurvelli. Honum bárust m.a. stuðningskveðjur frá ýmsum verkalýðsfélögum og A.S.Í. og B.S.R.B. Aðgerðir námsmanna voru yfirleitt skipulagðar af Kjarabaráttunefnd námsmanna, sem er skipuð fulltrúum frá öllum skólum, sem aðild eiga að lánasjóði ísl. námsmanna og svokölluðum K-lánum. Samstaða námsmanna innan Kjarabaráttunefndar var mikil og heyrðust þar aldrei úrtöluraddir þrátt fyrir þá mismunandi nemendahópa, sem að henni eiga aðild. Baráttan hafði þau áhrif, að ríkisstjórnin sá sig tilknúna að lofa, að námslán héldu svipuðu raungildi og á síðasta ári. En það skilyrði er sett, að jafnhliða fari fram endurskoðun á lánakerfinu. Þar þurfa námsmenn að vera vel á verði, því ríkisvald borgarastéttarinnar er líklegt til þess að knýja fram mjög óhagstæðar breytingar á lánakerfinu vegna þess stutta tíma, sem nefndin hefir til umráða.

Þeir lærdómar, sem hægt er að draga af árangri námsmanna er að árásum ríkisvalds og borgarastéttar verður ekki hrundið nema með gagnsókn og samstöðu. Námsmenn öðlast aukinn skilning á eðli ríkisvaldsins og að þeir eigi samstöðu með vinnandi alþýðu. Námsmenn sjá að barátta þeirra er ekki einangrað fyrirbrigði heldur er stéttabaráttan gegn ríkisvaldi stóratvinnurekenda háð fleiri vígstöðum t.d. yfirstandandi barátta sjómanna, verkamanna og opinberra starfsmanna.

Námsmenn voru allflestir sammála um að þeir bæru ekki ábyrgð á kreppu auðvaldsins og þyrftu því ekki að bera byrðar hennar heldur skyldi auðvaldið eiga sjálft sína kreppu t.a.m. þau 422 stórfyrirtæki í Reykjavík sem velta milljörðum en borga engan tekjuskatt. En mikilvægast af öllu er sú staðreynd að samstaða námsmanna og barátta þeirra hratt árás ríkisvaldsins í bili og námsmönnum er ljóst að þeir eiga fyrst og fremst samleið með alþýðu landsins í baráttu gegn kreppu auðvaldsins og fyrir afnámi auðvaldsskipulagsins á Íslandi.

LENGI LIFI SAMSTAÐA NÁMSMANNA OG VINNANDI-ALÞÝÐU!



## FRÁ RITSTJÓRN

# EFLUM VERKALÝÐSBLAÐIÐ !

Á Íslandi er enginn sterkur fjölmiðill sem gætir hagsmuna vinnandi alþýðu. ÖLL dagblöðin eru málpípur borgaralegra afla, sem gæta hagsmuna ríkjandi skipulags betur en sjáaldurs auga síns. Spilling og yfirgangur borgaranna er nú í algleymingi í skjóli stéttasamvinnustefnu forystunnar í hagsmunasamtökum vinnandi alþýðu. Forystulið Alþýðubandalags keppist við að verja þingræðisskipulag auðvaldsþjóðfélagsins fyrir harðri gagnrýni, og sú gagnrýni kemur ekki frá borgurunum heldur alþýðu landsins, sem sér hvernig þingræðið er ekkert annað en samsull fjármálaspillingar og eitt allsherjar leiksvið til að fela það hver í raun og veru hefur völdin - einokunarauðvaldið. Málpípa Alþ.bandalagsins, Þjóðviljinn, er einn helsti fulltrúi til varnar þeim hluta einokunarauðvalds sem er ríkiseinokunarauðvaldið. Þessa varnarbaráttu reynir Þjóðvilji að lita rauða til að blekkja alþýðuna til stuðnings. Gagnrýni alþýðunnar á þingræðisbrölt og spillingu kalla hinsvegar fulltrúar Alþ.bandalags óraunhæfa, þetta er ekkert annað en óánægja blaðamanna afturhaldsblaðanna Vísis, DB og Mogga, segir Lúðvík í sjónvarpi 12.11.

Alþýðan sér að þetta er skrípaleikur, en ráð hennar eru enn kæfð í soramennsku uppkeyptra "alþýðu"pólitíkusa og málgagna þeirra. Ríkisfjölmiðlarnir, útvarp og sjónvarp, lúta pólitísku valdi, því hinu sama og matar sarp sinn á fjármálaspillingunni. Afhjúpun á algeru gjaldþroti þingræðiskerfisins getur því aldrei komið fram í þessum gjallarhornum borgaranna.

Alþýða Íslands verður að eignast hárbeittan málsvara, sem bæði flytur alþýðunni fréttir af stéttabaráttunni og er fært um að greiða borgarastéttinni þung högg með sífelldum afhjúpunum á eðli auðvaldsskipulagsins, rotnun og spillingu þess og þeirra pólitísku flokka, sem verja spillinguna með oddi og egg, en það gera allir þeir flokkar sem sitja þingstóla Alþingis nú, hver með sínum hætti.

Alþýða Íslands verður að eignast sitt eigið málgagn. VERKALÝÐSBLAÐIÐ er nú aðeins frjóangi slíks málgagns. Að honum verður að hlúa. Aðeins með öflugu átaki kommúnískra og framsækinna afla er hægt að skapa slíkt málgagn sem VERKALÝÐSBLAÐIÐ skal verða. Nú eru hörð stéttaátök framundan og brýnni þörf á öflugu málgagni vinnandi alþýðu.

**greiðið áskrift !**

**gíró 12200**

EFLUM ÚTBREIÐSLU VERKALÝÐSBLAÐSINS - GERUM VERKALÝÐSBLAÐIÐ AÐ HÁRBEITTU VOPNI Í STÉTTABARÁTTUNNI!



Hjá Október-forlaginu er nýútkomin 6.bók forlagsins - eftir nokkra bið. Um er að ræða bækling er heitir GEGN TROTSKISMA og VINSTRI RÓTTÆKNI og er nr.2 í bókaflokknum "Af blöðum alþýðubaráttunnar".
Hann er 25 síður að stærð - en verðið nálægt 2oo kr.
Efni hans er í stuttu máli dæmi um stefnu og starfshætti trotskista í allmörgum þjóðlöndum, m.a. í Víetnam, Kína og á Spáni. Íslenskir trotskistar hafa nú hreiðrað um sig í Fylkingunni og þar barist gegn stefnu Þjóðfrelsisfylkingarinnar í Víetnam og Víetnamnefndarinnar, rekið klofningsstefnu innan samfylkinga og ráðist að alþýðulýðveldinu Kína.
Bæklingurinn rekur einmitt svipaða afstöðu trotskista erlendis og sýnir að ruglandi trotskista er alþjóðleg óþurftarstefna.

Þess ber að geta að í upphaflegri útgáfu bæklingsins var kafli er innihélt bréf og önnur plögg varðandi KSML. Kom þar fram ófélagsleg gagnrýni á KSML og villandi samlíking á KFML(r) í Svíþjóð og KSML nú, vegna þess að ekki var dregin afmarkandi lína milli samtakanna við núverandi aðstæður.
Október-forlagið hefur innkallað öll fáanleg eintök af bæklingnum og numið brott efni sem dregið skal til baka.

Brátt eru væntanlegar eftirtaldar bækur:
1. Um samfylkingu gegn fasisma eftir Dimitrov, aðalritara alþjóðsambands kommúnista (KOMINTERN) frá 1935. Kommúnistaflokkurinn gaf hana áður út á þeim árum.
2. Efni um Alþýðubandalagið og "ráðherrasósíalisma" þess ásamt afhjúpun á endurskoðunarstefnunni.
3. Um Kína, utanríkispólitík alþýðulýðv. og einnig auðvaldsstefnu Sovétríkjanna.
Bókin "Byltingin heldur áfram" eftir Jan Myrdal um Kína er dýr í útgáfu og vegna lítils bolmagns mun útgáfa hennar dragst enn um sinn.

STRYRKIÐ Október-forlagið OG KAUPIÐ ÚTGÁFUEFNI ÞESS.

Skólastræti 3b Rvk.
Pósthólf 541 Akureyri.

Baráttukveðjur,

OKTÓBER-FORLAGIÐ.

FRAMH. AF BAKSÍÐU

# FRAP




FRAP leggur mikla áherslu á breytilegt og sveigjanlegt skipulag, bæði í uppbyggingu samtakanna og starfi, án þess að það komi niður á öryggi þeirra samtaka sem eiga aðild að FRAP og félaga þeirra. En öll aðildarsamtök FRAP eru ofsótt og kúguð af fasistastjórninni. Aðaltakmarkið með slíkri skipulagningu er að FRAP-hóparnir geti umbreyst á stuttum tíma í virka leiðandi hópa í byltingarbaráttu fjöldans.
FRAP-hópar eru nú til í mörgum verksmiðjum, meðal hermanna, í íbúðarhverfum og víðar.

## Aðildarsamtök FRAP eru nú:

Spænska Sósíalistasambandið(USE); Andstöðuhreyfing verkamanna í fagfélögunum(OSO); Lýðræðislega Háskólasambandið(FUDE); Kommúnistaflokkur Spánar(m-l)(PCE (m-l); Þjóðlega Frelsissamfylking Spánar(FELN); Kommúnistahreyfing Spánar(marx-lenínískur hópur) (MCEm-l); Lýðræðislega alþýðufylkingun í Valencia (MDPU); Alþýðusamband Kvenna(UPM); Kommúnísk Æska(m-l) á Spáni(JSE m-l); Samband Lýðræðissinnaðra menntaskólanema(FEDEM); Alþýðusamband Landsbyggðarinnar(UPC); Fréttastofan Spánn Alþýðunnar(APEP); Einingarsamfylking fyrir samstöðu(FUS); auk fjölda annara samtaka og hreyfinga, einkum minni staða víðasvegar um Spán.

## Hvað vill FRAP?

Stefnuskrá FRAP inniheldur 6 atriði.

1/ Að steypa af stóli fasíska einræðinu og reka á brott bandarísku heimsvaldastefnuna með byltingarsinnaðri baráttu.

2/ Stofnun sambandslýðveldis, sem tryggir lýðréttindi fyrir alþýðuna og réttindi þjóðlegra minnihluta.

3/ Þjóðnýtingu eigna erlendra einokunarauðherra og eignarnám á eignum konungsvaldsins.

4/ Umfangsmiklar landbúnaðarumbætur á grundvelli eignarnáms stórjarðanna.

5/ Alger útrýming á því sem eftir er af spænsku nýlendustefnunni.

6/ Uppbygging hers í þjónustu alþýðunnar.

# 45 àr frà stofnun KFÍ

# fundur

29 nóvember n.k. eru 45 ár liðin síðan Kommúnistaflokkur Íslands var stofnaður. Í því tilefni efna EIK(m-l) og KSML til afmælisfundar, sunnudaginn 30.nóvember kl.3 síðdegis í Iðnó.
Félagar úr gamla Kommúnistaflokknum munu halda smá tölur ásamt félögum úr EIK(m-l) og KSML. Einnig verður fjölbreitt dagskrá, tekin saman af félögum úr EIK(m-l) og KSML með aðstoð ýmissa góðra listamanna. Má nefna, sem dæmi leikþátt, söngsveit og samlestur úr ritum kommúnista frá 4.áratugnum og ljóðalestur.
AÐGANGUR ER ÓKEYPIS.
FJÖLMENNIÐ
BYGGJUM NÝJAN KOMMÚNISTAFLOKK Á ÍSLANDI.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ

## LIFI HETJULEG BARÁTTA FRAP OG PCE(M-L)

### SPÁNN




# STYÐJUM FRAP!

Spænsk alþýða á fyrir höndum langa byltingarbaráttu gegn ríkjandi fasisma á Spáni.
Sú barátta mun eflast nú þegar fasistaleiðtoginn Franco er grafinn og spænska borgarastéttin verður að leita sér nýs leiðtoga. Spænski fasisminn stendur á leirfótum. Borgarastéttin er klofin í afstöðunni til einræðisstjórnarinnar. Þjóðernisminnihlutarnir heimta æ ákafar sjálfsstjórn og sjálfræði. Byltingarhreyfingin á Spáni styrkist í baráttunni gegn bæði fasismanum og fölskum kommúnistum spænska endurskoðunarsinnaflokksins, sem gerir aðeins það sem Kreml segir.
Fremstir í flokki byltingarsinna er marx-lenínistaflokkurinn PCE(m-l) og andfasíska samfylkingin FRAP.

### HVAÐ ER BYLTINGARSINNAÐA ANDFASISTASAMFYLKINGIN - FRAP ?

Upphaf FRAP er að í jan. 1971 mynduðu félagar ýmissa andfasískra samtaka og hreyfinga á Spáni með sér nefnd til að samræma aðgerðir gegn Franco einræðinu. Nefnd þessi skipulagði störf andstæðinga fasismans og mótaði stefnuna, dreifði áróðri og útskýrði nauðsyn þess að stofnuð yrðu samtök eins og FRAP síðar urðu. Í jan. 1974 voru FRAP stofnuð, sem samtök um allan Spán. Fjöldi hreyfinga og samtaka eru meðlimir í FRAP og eru meðlimir þessara samtaka sjálfkrafa meðlimir í FRAP. Einnig eru skipulagðir sérstakir FRAP-hópar þeirra félaga í FRAP, sem ekki eru meðlimir annara samtaka sem aðild eiga að FRAP.



( framh. bls. 9 )

# FASISTAFLOKKUR Í UPPSIGLINGU

Kreppa auðvaldsins verður sífellt umfangsmeiri og tekur til æ fleiri þátta framleiðslu. Auðvaldið verður að beita æ meiri grimmd til að viðhalda gróðahlutfallinu. Þetta kemur niður á kjörum alþýðunnar á öllum sviðum. Laun lækka, félagsleg þjónusta minnkar, vegna þess að ríkisvald auðvaldsins sker niður á fjárveitingum, skattabyrðin á alþýðunni eykst o.s.frv. Trúnaður sá sem alþýðan hefur, þrátt fyrir allt haft á þingræðiskerfinu og þeirri lýðræðishulu sem það hjúpar sig, fer minnkandi og þverr.
Þetta ástand kallar á ný viðbrögð einokunarauðvaldsins, það beitir valdi sínu nöktu gegn alþýðunni. Fasismi er ekkert annað en ein af birtingarmyndum þess stjórnkerfis sem einokunarauðvaldið notar.
En einokunarauðvaldið þarf að byggja upp þá sveit brúnstakka, sem það lætur ganga á undan og ryðja veginn fyrir fasíska skipulaginu. Sú uppbygging er nú í gangi hér á Íslandi. Undir merki "þjóðernisstefnu" hefur verið kallað á gamla og nýja nasista og fasista til samtaka. Þessi sömu öfl hafa hafið útgáfu á sorpritinu "Staðreyndir" þar sem stefnan kemur fram ómenguð. Hitler-fasisminn lofaður og kynþáttahatrið tekið upp úr rykinu. Herferðin gegn kommúnistum og öllum framsæknum öflum er hafin, en stækasta afturhald og kúgunarverk eru hafin til vegs.
Þessi nýi fasistaflokkur á sér sterka stuðningsmenn í röðum Sjálfstæðisflokksins. Ekki þarf hann að skorta fé til að ausa út óþverra sínum, því að honum stendur allskonar viðskifta- og braskaraauðvald og svo einokunarauðvaldið.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ skorar á alla lýðræðissinnaða aðila og alþýðu manna um allt land að berjast af grimmd gegn þessum óvætti, því einskis er að vænta frá honum annað en grimmd og kúgun.

NIÐUR MEÐ FASISTAFLOKKINN

# „卐taðreyndir..."

Nýlega hóf göngu sína blaðsnepill nokkur, sem ber nafnið "Staðreyndir". Undirtitill er "Gegn lýðræði. Fyrir stjórnræði". Staðreyndir þær, sem blað þetta flytur, eru staðreyndir hins fasíska afturhaldsæðis, sem vill fá yfirgangsfrekustu mannhöturum úr yfirstéttinni alræðisvöld.
Fasisminn er versti óvinur verkalýðs og allrar vinnandi alþýðu og er því fróðleg sú nöpurlega staðreynd, að blað þetta skuli vera prentað í Prentsmiðju Þjóðviljans og sýnir það vel hverjar eru afleiðingar hins frjálslynda "sósíalisma" Alþýðubandalagsforystunnar.
Þó að blaðið "Staðreyndir" sé ekki stórt í sniðum og útgefandi aðeins skráður einn (Jón Þ. Árnason), er vert að minnast þess, að lýðræðis- og menningarfjandsamlegar hugmyndir blaðsins - fasisminn - eiga sér bakhjarl meðal yfirstéttarinnar, þótt hún veigri sér við að

# FASISTA SNEPILL

gangast við þessu afkvæmi sínu opinberlega.
Ekki síst nú, þegar kreppa auðvaldsþjóðfélagsins hefir leitt til síendurtekinna skerðinga á kjörum alþýðu og hún býr sig undir harðari stéttabaráttu, eiga fasískar hugmyndir hljómgrunn meðal burgeisastéttarinnar. Það er því full ástæða fyrir verkalýð og allt frelsisunnandi fólk að vera vel á verði og berjast af hörku gegn fasismanum og hvers konar hugmyndum um afnám mannréttinda.
Heiðarlegir verkalýðssinnar í Alþýðubandalaginu! Látið ekki viðgangast að Prentsmiðja Þjóðviljans sé notuð til að prenta ofsóknaráróður gegn verkalýðnum!

**NIÐUR MEÐ FASISMANN !**



## NÝ VINNULÖGGJÖF frh af bls. 1

2. Allar launakröfur verði samræmdar á sem breiðustum grundvelli, þannig að fámennur hópur stéttasamvinnupáfa, sem eru uppfullir af samábyrgð með auðvaldinu, fari með mál verkalýðsins.
3. "Lýðræðið" á að tryggja með því að heildarkosningar fari fram innan verkalýðssamtakanna um kjarasamninga. (Látið er í það skína að hindra eigi flugmenn, flugfreyjur, yfirmenn á togurum og þvílíka smáhópa í að geta stöðvað heilu atvinnuvegina um langan tíma, en þessi viðbára er aðeins yfirklór, því hið sanna er að með þessari aðferð á að tryggja að stéttvísasti hluti verkalýðsins verði á sem öruggastan hátt einangraður.)
4. Stórauka á tengst "aðila vinnumarkaðarina" við hinar "vísindalegu" stofnanir ríkisvaldsins, sem fjalla um hag þjóðarbúsins á "óhlutdrægan" hátt.
5. Auka á vald og starfsaðstöðu þess aðila, sem hefur síðasta orðið ef annað bregst hjá auðvaldinu, þ.e. sáttasemjara.

Í auðvaldsþjóðfélagi getur löggjöfin aldrei tryggt réttindi verkalýðsins, hversu oft og hversu mikið sem henni er breytt. Löggjafi auðvaldsþjóðfélagsins tekur ávallt mið af hagsmunum auðvaldsins. Eina vopnið sem verkalýðurinn á í baráttunni við auðvaldið er órofa samstaða hans á öllum sviðum stéttabaráttunnar. Sú samstaða næst aðeins með því að verkafólkið sjálft taki virkan þátt í faglegu og pólitísku starfi, sem tekur mið af hagsmunum alþýðunnar. Það er ekki vinnulöggjöfin, sem er orsök lélegrar afkomu verkalýðsins nú á tímum, heldur skortur á eigin baráttu verkafólksins fyrir bættum kjörum og auknum réttindum. Vinnulöggjöfina verður að skoða í heildarsamhengi við arðránskerfi auðvaldsins. Það kostaði verkafólk langa baráttu að ná þeim atvinnuréttindum og því öryggi sem vinnulöggjöfin þrátt fyrir allt veitir. En það er ekki nóg, vinnulöggjöfin er takmörkuð og nú á enn að takmarka hana. Gegn því verður að berjast harðlega.

Innan verkalýðsfélaganna hafa stéttasamvinnupáfarnir gengið þannig frá málum að hinn almenni félagsmaður kemur hvergi nærri starfi verkalýðsfélaganna, nema þegar smalað er saman tryggustu fylgjum páfanna til að greiða atkvæði um mál sem þeir sjálfir vilja koma í gegn. Þessu verður að breyta. Verkafólkið verður að efla verkalýðsfélögin þannig að þau verði virkari í kjarabaráttunni og í kjölfar hennar verður að fylgja öflugt pólitískt starf og barátta verkalýðsins, sem tryggir að áunnar kjarabætur hverfi ekki eins og dögg fyrir sólu um leið og blekið þornar á samningsblöðunum. Aðeins með þessu móti verður tryggt að auðvaldið ráðskist ekki algerlega með hag alþýðunnar, hvort sem það birtist í mynd nýrrar vinnulöggjafar eða annarra arðránstækja auðvaldsins.

## LIST- (framh. af bsl. 4)

fjölda, og mjög margir þeirra telja sig svo og svo róttæka. En róttæk alþýðulist er hér ekki fyrir hendi a.m.k. ekki meðal yngri listamanna. Mjög svo dæmigerð framleiðsla eru "neðanjarðar" ljóðabækurnar, sem nú eru að verða mjög algengar, þ.e. ljóðabækur sem skáldin gefa sjálf út og sjá oftast sjálf um sölu að hluta til. Þær eru svo dæmigerðar fyrir þá list, sem hér er talin byltingarsinnuð, að tilvalið er að takmarka þessa umræðu við þær.

Þessi framleiðsla á sér mjög lítin lesendahóp, það eru róttæklingar ýmiss konar, bóhemaklíka, yfirleitt allt menntafólk. Það er sjálfsögðu lífsnauðsyn fyrir róttækt skáld að ná til alþýðunnar, en hver er forsenda þess að það megi verða? Hún er einfaldlega sú, að skáldið tali máli alþýðunnar og taki afstöð með henni. Hinn byltingarsinnaði áróður, sem listinni er ætlað að flytja, verður að miðast út frá því vitundarstigi, sem fólkið stendur á en ekki því sem skáldið stendur á. Ennfremur verður skáldið að taka skilyrðislausa afstöðu með alþýðunni, það má ekki líta á það sem sitt hlutverk að gagnrýna hana eða prédika yfir henni, heldur leiða hana áfram á braut hennar eigin baráttu, þ.e. út frá þeim skilyrðum sem hún sjálf setur.

Það er vissulega mjög langt í frá, að það sé þessi afstaða eða þessi vinnubrögð, sem fram koma ú umræddum ljóðabókum. Undantekningarlaust yrkja þessi skáld út frá sínum eigin púnkt, og stéttarafstaðan, sem fram kemur er helst þannig að þeir virðast telja sig sérstaka stétt (bóhemar?). Að vísu er sett fram ádeila á borgaralegt þjóðfélag, sennilega ætluð borgarastéttinni, en oft er þó erfitt að sjá annað, en skáldin telji allar stéttir jafn mikla óvini, nema þá "skáldastéttina". Þunglyndi þeirra er oft á tíðum átakanlegt, þegar þeir stynja yfir því hlutskipti að vera hrópandi í eyðimörk allsnægtarþjóðfélagsins og barma sér yfir lífsgæðakapphlaupi og smáborgarahætti alþýðufólksins, sem ekki vill koma upp til þeirra, heldur hamast við að vinna fyrir útborgun í tveggja herbergja íbúð í Breiðholti. Boðskapur þeirra til alþýðufólks er mestmegnis svolátandi kveinan: Afhverju viljið þið endilega vera að vinna tíu til tólf stundir á dag í stað þess að lesa og yrkja ljóð eins og við? Af hverju í ósköpunum getið þið ekki verið róttæk, fyrst við erum róttækir?

- Það má vissulega teljast dirfska, þegar þessir menn lýsa því opinberlega yfir að þeir séu alþýðumenn eins og t.d. Ólafur Haukur Símonarson gerði í Þjóðviljanum í vetur. Stéttarvitund alþýðufólks gagnvart þessum listamönnum er ekki eins rugluð því hún afneitar þeim algerlega og álítur þá einungis menningarsnobb, sem rétt er, og það versta er, að þeir snobba fyrir borgaralegri menningu og flytja borgaralegar hugmyndir. Og á meðan þeir eru að eltast við mánagyðjuna eða haustlitina eða sína viðkvæmu og óstöðusu vitund heldur almenningur áfram að vera ofurseldur fjöldaframleiðslu borgarastéttarinnar, sérstaklega hannaðri til að slæva stéttarvitund og baráttuvilja fólksins.

Það er þung ábyrgð fyrir róttækan listamann að bera, en því miður ber ekki á öðru en listamennirnir okkar séu bara góðir með sig yfir því hlassi.

## pöntunarlisti

ATH. að mun ódýrara er að nota gíró, þar sem gíróeyðublað kostar kr. 27 en minnsta póstkröfugjald er kr. 160.

PÖNTUN TIL OKTÓBER-FORLAGSINS
Pósthólf 541 Akureyri.

Frá ______________________

Heima ____________________

Gjörið svo vel að senda mér eftirfarandi útgáfuefni
gegn póstkröfu ☐
gegn innborgun á gíróreikning OKTÓBER-FORLAGSINS nr. 97188 ☐

1. Ályktanir og samþykktir stofnþings EIK(m-l) .kr. 100.-
2. Ályktanir fyrstu sameiginlegu ráðstefnu norrænna marx-lenínista ........................kr. 200.-
3. Baráttuleið alþýðunnar ....................kr. 400.-
4. Afstaðan til Stalíns ....................kr. 200.-
5. Rauðliðinn 1.tbl. ....................kr. 100.-
6. Fangelsisljóð Hó Chí Mí....................kr. 650.-




# Haldið stuðningsstarfinu áfram!

TALAÐ VIÐ LE VAN KY FORSTJÓRA UPPLÝSINGASKRIFSTOFU BRÁÐA-BIRGÐABYLTINGARSTJÓRNARINNAR Í SUÐUR-VÍETNAM Í OSLÓ.



**LE VAN KY**

Aðspurður kvað Ky höfuðverkefnið í SVN vera endurreisnarstarf til að eyða áhrifum 30 ára árásarstyrjaldar bandarískra heimsvaldasinna. Nefndir Þjóðfrelsisfylkingarinnar eru nú skipaðar óbreyttum borgurum úr öllum stéttum og fulltrúum ÞFF, en þær sjá um skipulags- og stjórnunarstörf í samvinnu við stjórnina.

Eftir sem næst algjöran skort á félagsþjónustu er sá þáttur þjóðlífsins í allgóðu lagi og tekist hefur að grynnka á atvinnuleysinu, sem ríkti eftir árásarstyrjöldina. Mikil áhersla er lögð á að efla landbúnaðinn svo næg matvæli fáist, en um leið reynt að endurskipuleggj. og auka iðnaðarframleiðsluna.

Aðaleinkenni stefnu byltingarafla SVN er samfylking og sættir allra hópa þjóðfélagsins, að undanskildum handlöngurum Bandaríkjanna.

"Markmiðið er efnalegt og pólitískt sjálfstæði með átaki allra lýðræðisafla og þjóðlegra aðila", sagði Ky.

Afturhaldið reynir að skapa sundrungu og efnahagshrun með svartamarkaðsbraski og undirróðursstarfi á vegum bandarísku leyniþjónustunnar CIA.

Le Van Ky lagði áherslu á þá staðreynd að einkaeign er enn ríkjandi á atvinnutækjum, ríkið hefur aðeins yfirtekið stórar framleiðslueiningar og skipt landi milli bænda á samyrkjugrundvelli eða þau rekin sem einkabú.

Ýmis risavaxin vandamál hrjá sigurvegarana og samherja okkar í SVN. Le Van Ky nefndi sem dæmi að um 26 milljónir sprengjugígar væru á ræktanlegu landi í SVN og um 200 þúsund tonn af ósprungnu sprengiefni á víð og dreif.

Að lokum kom Le Van Ky að mikilvægu atriði, en það er sameining Suður- og Norður-Víetnam, sem ávallt hafa verið eitt land, að undanskildum síðustu 30 árum.

"Þjóðfélagsskipun í Norður Víetnam er sósíalismi, en ekki í Suður Víetnam, þó hlutarnir séu ein efnaleg heild. Í suðri er mikið verk óunnið. Markmið okkar er, sameinað sjálfstætt Víetnam og um baráttu fyrir því er full samvinna milli stjórna Alþýðulýðveldisins og Bráðabirgðabyltingarstjórnarinnar", sagði Ky.

Hann flutti að lokum þakkir til allra stuðningsmanna alþýðubaráttunnar í Víetnam, stuðningur þeirra var ómetanlegur - sagði Ky. Og hans er enn þörf.

Nú hafa um 90 lönd viðurkennt og tekið upp samband við BBS í SVN.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ hvetur lesendur sína til að fylkja sér um Víetnamnefndina á Íslandi. Stuðnings er enn þörf og næg verkefni í baráttu víetnama og allra and-heimsvaldasinna.

# EIK(m-l) HEFUR OPNAÐ SKRIFSTOFU

Verður skrifstofan opin sem hér segir:

| | |
|---|---|
| MÁNUDAGA | Kl. 16-17 |
| FÖSTUDAGA | Kl. 17-19 |
| LAUGARDAGA | Kl. 14-16 |

SKRIFSTOFAN ER AÐ:
SKÓLASTRÆTI 3b
REYKJAVÍK.

Lítið við - kynnið ykkur starf og stefnu Einingarsamtaka Kommúnista(m-l). Kaupið útgáfuefni OKTÓBER-FORLAGSINS:

# NÁMSHÓPAR EIK(m-l)

Þekking á stéttabaráttunni og réttri baráttuaðferð er nauðsynleg til árangursríks starfs. EIK(m-l) líta á fræðslustarfið sem eitt af höfuðverkefnum samtakanna. Samtökin starfrækja námshópa þar sem m.a. rætt er um:

++íslenskt þjóðfélag og stéttskiptingu þess.
++hlutverk stéttafélaganna og núverandi ástand þeirra og hvað gera verði til þess að þau verði á ný baráttutæki í höndum vinnandi alþýðu.
++frelsisbaráttu erlendrar alþýðu.
++baráttuleið alþýðunnar, þá baráttu sem alþýðan verður að heyja til þess að öðlast frelsi og sjálfstæði í skipulagi sem hún sjálf hefur skapað.

TAKIÐ ÞÁTT Í ÞESSU STARFI.
SKRÁIÐ YKKUR Í NÁMSHÓPA.
HAFIÐ SAMBAND Í SÍMA 1[illegible].

**16753**

**Október**



# Afstaðan til Stalín

Heftið fjallar um verk Stalíns og starf. Í heftinu kemur fram mat kínverskra kommúnista á þætti þessa mikilhæfa leiðtoga sovésku sem alþjóðlegu kommúnistahreyfingu.
Heftið kostar 200 kr.

**KAUPIÐ**
**Hó Chí Mính**
**fangelsisdagbók**
**Kr. 650-**

